# Ein Aðvörunar Raust,

útlögð úr Engelsku af útgéfaranum.

---

Elskaði Lesari! Það ritkorn, sem þér nú í hendur géfst, snertir efni það, sem er hið allramik-ilvægasta og nauðsynligasta er þeinkjast og talast kann, því það miðar til þinnar sönnu velferðar og huggunar í þessu lífi, en þinnar sáluhjálpar í því eptirkomanda. Þú veitst, að þú hefur eina sálu, sem er skynsemi gjædd, hvör eð þeinkir og álýktar um allt það þú fyrir þig tekur; þú veitst, að þessi sála er, eptir eðli sínu, aðgreind frá líkamanum, og að hún, jafnvel eptir það kroppurinn er sinn og að moldu orðinn, heldur þó á fram að vera til, og það annaðhvört í einu ómælanliga sælu eður vesælu ástandi. Allt um kríng þig sierðu að manneskjurnar, ein eptir aðra, úngar sem gamlar, deja og leggjast í gröfina, og þú mátt búast við að hin sömu forlög mæta sjálfum þér, þegar minst von um varir. Innan fárra daga endast kannské allar þíns tímanliga

lífs umbreitíngar, og þú hlýtur að staðæmast þar, hvar þú eilífliga skalt, án umskipta, samastað hafa.

Synist þér þá ecki ærið um vardandi, að þú spyrjir sjálfann þig: hefi eg nockra óhulta ástædu þeirrar vonar, að eg, þegar deja skal, fái að inngánga himnaríkis sælufullu bústaði, edur hefi eg ecki stærri orsök að óttast, að sá Gud, hvorn eg styggt hefi, reki mig frá sínu augliti, í það afgrunn, hvar ógudligir pínast skulu eilífliga?

Ef þú lifir í syndinni og deyr í syndinni, þá verdur það sidara vissuliga þitt hlutfall. Athuga því, med gaumgiæfni, eptirfylgjandi velmeintar áminníngar:

1) Ef þú í syndinni lifir, það er: lætur hana af ásetiu yfir þér drottna, þá er þitt ástand í mesta máta háskaligt. Þú mundir aumka heimsku þess manns, sem í ofdyrfsku anadi fram á backa einnar botnlausrar grifju; en grifja sú, að hvørri þinn vegur liggur, er þó þúsundsinnum óttaligri. Þú kallar þann dára, sem, fyrir eins augnabliks sælgiæti, steypir sér í lángvarandi eymd; en þú ert þó miklu skynlausari, sem sökum þinnar syndugu dármensku, stofnar þér undir Guds reidingu eilífliga.

Heyr því raustu þessa, sem hrópar til þín og seigir: Nema svo sé að madur verdi að nýu fæddur, kann hann ecki að siá Guds ríki Joh. 3, 3. Þetta er ein raust frá þínum frelsara siálfum, er loksins verda mun þinn dómari; og ef

þad reyniſt þá, ad þú ei hafir hlutdeild feingid í þeirri nýa fædíngu, þá hefdi þér betra verid, aldrei ad hafa verid í heiminn fæddur. Þá mun ſagt verda í tilliti þín: takid hann, bindid hans hendur og fætur, og varpid hönum út í hin ytſtu myrkur, hvar vera mun óp og tannagníſtran Math. 22, 13. Viſſuliga má ſéſt efni, ſem ſnertir allra manna eilífu velferd, med fullum rétti kallaſt hid mikilvægaſta af ölln. Já, ſvo mikilvægt ætti þad ad vera hjarta þínu, ad þér bæri ad þeinkja um þad, hvar helldſt ſem þú ſtaddur værir og hvad ſem þú værir ad vinna, hvört heldur utan bæar edur innan, á förnum veigi, edur heima hjá þér. Og — hvörſu ſarſæll værir þú, ef þánkar þeſſir feingju leidt þig til ad ſækja eptir þeirri ſáluhjálp, ſem er i Jeſú Chriſto! En vilier þú ſlá frá þér ſlíkum þaunkum, af því þér finſt þeir auka þér neckra ſamviſku óróſemi, og viljirdu heldur, midt í dreymandi von um ſáluhjálpina, halda leingra adfram á glötunarinnar veigi, þá vit fyrir víſt, ad þeſſar ſvikulu ſjónhverſíngar bregdaſt þér, þegar veſt gégnir.

Innan ſkamms mun daudinn draga ſkýluna frá augum þér, og þú, ſem, medan lifdir, aldrei vildir heyra um helvíti talad, færd þá ſjalfur ad reyna, hvört Guds reidi í gégn ſyndinni hefir eckert ad þýda. O hvílíka ſkélfiliga ſjón muntu

þá sjá! hvílík óp og ylfranir heyra! og — hvílíkar kvalir máské sjálfur hljóta að reyna!

Sumir þeirra, sem orð þessi lesa eður heyra, kunna máské að vera þvílíkir, sem leggja í vana sinn að misbrúka Guðs nafn, sem sverja og hrópa formælíngar yfir sjálfa sig og aðra. Slíkir sýna, að þeir aldrei af alvöru hafa þeinkt um, hvað varið sé í það, að verða fordæmdur, því ella mundu þeir ei leyfa túngum sínum að leika sér að blóti og formælíngum. Sú alyktan Drottins stendur føst: að Hann mun ei láta þann óhegndann, sem misbrúkar hans nafn; það er að skilja: að andar myrkranna, á hverja hann svo ydugliga hrópar, skuli, eptir dauðann, verða hans stallbræður, og sá pínu-staður, í hvern hann óskar svo mørgum að fara, verði hans aðsetur, já allar þær formælíngar, sem hann svo tíðt hefur hrópað yfir sig og aðra, munu þá, í fullum mælir, yfir hann dynja.

Margir vanhelga hvíldardaginn; sumir með því að vanrækja opinbera Guðs dýrkun í kyrkjunni, aðrir, þó þeir synist við að rækja hana, gjøra það án allrar andaktar; sumir eyða sunnudeginum með ónytju rølti, bæfnatti, hégómamælgi, eður veraldligum umsvifum, aðrir í dryckjuskap og syndugu líferni. Mun nú því-ligt vera að halda hvíldardaginn heilagann? Guð hefur ákvarðað þann sjøunda part tímans

til sinnar dyrkunar, edur réttara sagt, til þinnar eigin sálar umsorgunar. Ef þú nú vogast ad ræna Gud því sem hønum med réttu tilheyrir, og kasta þeirri mikilvægustu umsorgum í vind, hvørs muntu þá meiga vænta þér á deigi endurgjaldsins, þegar þú, til ad heyra þinn dóm, koma skalt framfyrir auglit þess almáttuga og retláta heimsins dómara?

Gud hefur í 7da bodordinu bannad og sagt: þú skalt ecki stela! Nú liggur í þeirri syndugu mans náttúru ein sterk elska til sjálfs síu, og ein frek gyrnd til jardneskra eigna og fjármuna. Hiarta mans upptendrast svo audveldt til þeirrar gyrndar, ad eignast þad sem ødrum tilheyrir, annadhvørt med ofbeldi edur slægd, opinberliga edur heimugliga, á einnhátt, sem minna edur meira ber á, stundum med kjæusku og undirferli stundum undir yfirskini laga og réttinda. Menn kalla þad stór-þjófa, sem brióta upp hús og hyrdslur manna, til ad taka burtu eignir þeirra, og borgaralig løg straffa þá. En þad er allt ad einu í Guds augum þjófnadur, þegar madur í kaupum og sølum svíkur sinn náúnga, til dæmis: ef varan, vigtin edur mælirinn er lakari og minni enn vera bæri, og náúnginn veit af, ef madur dylur lesti á vørum sínum edur hrósar þeim um hóf fram; ef madur kúgar sinn þurfanda náúnga edur nýtir sér naud hans; ef madur þyggur mútur, nær madur med afdrætti

og óskilum svarar skottum sínum og skyldum til yfirvaldsins, edur til hvörs annars sem madur á nockrum gjöldum edur skuldum ad lúka. Hugsa þig nú um, minn vin! hvört þú aldrei hefur fundid til slíkrar þjófsnáttúru í hjarta þínu, og hvört þú aldrei hafir þig sékann giørdt í neinu svoddan? Bid af hjarta Gud um nád, ad þú dempad fáir slíkar syndugar gyrndir í sinni uppbyrjun; bid um þvílíkt hjartalag, sem fúst sé ad elska og adstoda þinn náúnga, því ritníngin seigir: ad eingir rángsleitner, edur þjófar, ellegar ágjarnir skulu erfa gudsríki. 1 Cor. 6.

Þá er og dryckjuskapur ein synd, sem hæfir, bædi ædri og lægri, tídum hrapa í, hvør synd ad gjørir mann þó andstyggiligann bædi í Guds og manna augum. Ad vísu géfur Gud oss mikid og margt til líkamans naudþurftar, og líka ann oss til hressíngar margs velsmackandi matar og endurnærandi dryckjar, en þad er hørmuligt til ad vita, ad menn svo optast neyta þessara Guds-gáfna, ad þeir gleyma audmýkt og þacklæti til hans, sem þá géfid hefur, gleyma hóf og sparsemi midt í sjálfri brúkuninni, já gleyma þeim húngrada og þyrsta, hvørjum þeir ættu ad medbíta af gnægd sinni. Ecki tala eg um þá samvitskulausu svallara og syllisvín, sem sóa sínum eignum út med ofdryckju, en láta konu og børn svelta heilu húngri, því slíkir eru villudýrum argari, heldur tala eg til þín, sem veitst þig

hafa ytirfliótanligt af jardneskum munum, og þessvegna sœ'ur þér nidur í vellystíngar og bílífi, hvor ed eydir hinum dýrmœta tíma í listugra selskapsbrœdra flocki, iá brúkar stundum áfeinga drycki til ad svœfa med þeim samvitskunnar innvortis klagandi röddu. Þú sem svoleidis breitir, hugsa um hvad þú ad hefst. Spyr Gud og þína samvitsku hvört þú gjörir þetta rétt. Eg ræd þér, hrópadu til Guds um nád, til ad géta nidurkicœst þínar syndugu tilhneigíngar. Umflý selskap þeirra sem afvegaleida þig, og þá stadi hvar þér er mest hætta búin.

Lát heiminu hlœa ad þér og hata þig fyrir þad, ef hann vill, þad er minna í þad varid, enn ad verda fyrir reidi þess réttláta dómara á hans stóra opinberunar deigi. Þá mun þeirra dárligu heimsins sœlkiera hlátur snúast í eilífann grát, þegar þeir hljóta ad drecka af dreggjum hans reidi ad eilífu.

Hér fyrir utan finst allstór tala þeirra í heiminum, sem lifa í úngdóms vellyst, í lauslœti og saurlifnadi O veitstu ecki, mannestia, edur vilt u ecki vita, hve synd þessi andstyggilig er í Guds augliti? veistu ecki, hve stránganu reikníngskap Gud vill af þér í dóminum heimta, þar þú hlýtur þá ad svara til, ecki einúngis allra lauslœtis orda og verka, sem þú drýgt hefur, heldur og allra saurigra þánka, af hvörjum þú hefur ánœgju haft. Og hvörsu banvænar eru

slíkar syndir sálunni, því þær forherda hjartad, gjöra samvitskuna tilfinníngarlausa, og steypa manneskjunni í vissa fortapun. Um þvílíka syndara seigir Gud, í sínu ordi, ad hlutdeild þeirra skuli vera í því díki, sem vellur af eldi og brennusteini.

Nú kunna sumir þeirra, sem lesa edur heyra þetta, ad géta sagt: «Gudi séu þakkir, eg er ecki einn af þessum hér upptöldu syndurum. Eg er ecki svo spilltur, edur í slíkum syndum sekur. Eg lifi í fridi og eindrægni vid alla menn, og breiti vid alla rèttvíslliga. Kostgjæfiliga sæki eg kyrkju mína og geing til Guds bords. Kunni þessvegna nockur vona hólpinn ad verda fyrir þá skuld, þá er eg þad vissuliga.»

En heyr, kjæri vin! hvör helst sem þú ert! Satt kann þad vera, sem þu seigir, ad þú ei drýgt hafir neina stórglæpi, og ad þú rækir þín útvortis skylduverk vid Gud og náúngann. En eingu ad sídur kann þó hjarta þitt ad vera ískalt í elskunni til Jesúm og hans lærdóms; já, sála þín gétur örsnaud verid af þeirri sannu sáluhjalpligu trú. Phariséarinn, um hvörn Jesús sagdi, ad hann hefdi geingid upp í musterid ad bidjast fyrir, taladi og svo mikid um, hvad hann gjördt hefdi og ecki gjördt, og þó vard hans gudrækni forsmád. Þar géfast margar manneskjur, sem hafa skin gudhrædslunnar, en afneita hennar krapti; en kraptur hennar er ein lifandi trú á

Jesúm Christum. Lát vera lifnadur þinn sé fyrir mønnunum ólastandi, samt ertu þó ecki einn af þeim sønnu Jesú játendum, svo leingi heil: andi ei fær uppvakid hjá þér eitt alvarligt ángur út af þinni náttúru spillíngu og innvortis syndu saurgun, og svo leingi þér verdur ei, yfir alla hluti fram, umhugad, med brennandi bæn, ad leita fyrirgéfníngar og sáluhjálpar hjá Jesú Christo. Taktu vel eptir þessu! Þar géfast viss og óhult kénniteikn, sem adgreina þær mann-eskjur, sem af hjarta og yfir allt fram óttast og elska Gud; frá þeim, sem mest elska sjálfa sig, heiminn og hluti þá, sem í heiminum eru. Ef þú vilt nockur af þeim kénniteiknum heyra, þá, yfirvega, svo sem fyrir Guds augliti, eptirfylgjandi afmálanir.

Sá óttast og elskar ecki Gud, sem leitar sinnar ædstu lucku í jardneskum hlutum. Af því hønum þykir vænst um þad jardneska, sorgar mest fyrir því og sækir eptir, þá rætast á hønum Jesú ord: ad hvar eins féssjódur sé, þar sé hans hjarta. Géfist hønum færi ad auka eignir sínar, ef kauphøndlanin er ábatasøm, og ef hann, fyrir útvortis álit og míndugleika, gétur hafid sig upp yfir sína fátæku nágranna, þá hefur hann áunnid þá lucku, sem hann eptirsókti, og seigir þá til sálar sinnar, med þeim ríka dára, sem biblían nefnir: »þú hefur mikla safnad til margra ára, lifdu nú í nádum, et og dreck

og gjør þig glaðværa!» Kjæri vin! sem þetta les eður heyrir, lát samvitsku þína seigja, hvørt þú ei breitir þessu líkt? Er hjarta þitt ecki of fast við jarðneska hluti? Sé svo, þá álíttu þessa áminningu, sem eina raustu frá himnum komna, hvør eð hrópar þannig til þín: «Þú ert ein óumvendt manneskja, þú ert fjandmaður Guðs; því hvør sem elskar heiminn meira enn Gud, sá er Guðs óvinur.» Þar hvert á móti, sá sem réttiliga óttast Guð og elskar, sá er upplýstur og sannfærður um, hve hégómligir, hve ónógir og hve fánýtir allir jarðneskir hlutir séu. Hann veit og finnur það sjálfur, að þeir géta ei giørdt sig sannfarsælann, og þessvegna nær heimsins børn, með svo mikilli ákéfð sœkjast eptir þeim, seigir hann með Davíð: «upplyptu, Drottinn! yfir mig ljósi þíns andlitis, þú gledur hjarta mitt með stærri fagnuði enn þeir hafa, sem gleðjast yfir gnægð af korni og víni Ps. 4, 7.» Einginn hlutur gétur fullnægt hønum, nema einúngis Guðs náð í Jesú Christo, og eckert uppfyllt sálu hans með sætari fagnuði, enn friður Guðs og kjærleiki í heil: anda.

Viti hann sig að vera fundinn Guðs vin, er fátækt og forsmán hønum lángtum kjærari, enn øll heimsins andæfi, ef hann skyldi þar fyrir Guðs náðar missa.

Einn óguðligur maður elskar ecki, heiðrar ecki né óttast Guð; margir þvílíkra vanrækja

opinbera Guds þjónustu í kyrkjunni, og þó sumir þeirra til hennar komi, skédur þad einúngis af tómum vana, og þeim þykir vænt um, nær hún er á enda. Á sunnudögum leita þeir sér holdligra lystisemda, og jafnvel ecki gleyma sínum líkamligum útréttíngum, en eingu ad sídur finst þeim þó dagur sá leingstur allra daga í vikunni; opt má heyra þá qvarta yfir því, ad sér leidist og þyki lángt úr verda. Á andaktaræfíngum í einrúmi, edur á því ad lofa Gud og tala um hann í samfélagi med sínu heimafólki, hafa þeir eingar mætur. Af því þeir elska syndina og heiminn, géta þeir einga ánægju haft af umgeingni vid Gud, í heimugligri bæn og hugleidíngum.

En hinn gudhræddi þar á mót gétur ei annars enn haft Drottins hús í stærstu virdíngu, svo sem þad pláts, hvadan lofgjörd Guds og lærd útbreidist og hvar evangelíum, mönnunum til sáluhjálpar, bodast.

Med stærstu gledi tekur hann því á móti þeim bodskap: látum oss gánga í hús Drottins! Hann geingur þángad, med húngri og þorsta eptir lífsins braudi og vatni, og þær stundir, sem hann dvelur þar, reiknar hann þær sælustu sinna lífdaga. Hann gétur ei lifad án þess, ad hann med þrejandi andvörpum úthelli sínu hjarta fyrir Gudi; og med því móti fær hann ei allsjaldan

ad reyna forsmeck himneskrar gledi í sálu sinni, og líta, sem áleingdar, einn geisla eilífrar sælu.

Einn óguðligur madur, sem er fadir edur húsbóndi, ber einga sanna umsorgun fyrir þeim ódauðligu sálum barna sinna. Séu þaug heilsugód og þrífist vel, nái þaug 'uckn-kjörnum í heiminnum, géti hann aflad þeim fædis, klædnadar og nockurrar arfsvonar eptir sig, þá þykist hann hafa fullkomliga gjørdt sitt hid besta, þeim til nota. Hvad sálar-hag þeirra líður, þar úm sæst hann ecki, ędur gjørir sér af mikla samvitsku. Þessvegna uppalast þaug í syndsamligum vana, munnsłapurs-christindómi, og jafnvel í fáfrædi um Gud og sinn frelsara. Þaug láta sér, eins og foreldrar þeirra, nægja útvortis játníngunna tóma, en fraptur ordsins festir eingar réttar rætur hjá þeim. Þannig er þó varid um barna-uppfóstur margra þúsund foreldra; en alla þvílíka, sem ei leggja meiri alúd á ad efla audsliga og eilífa velferd barna sinna, má madur fyrir víst telja í flocki hinna óguðligu. Aptur á móti, sá sem óttast Gud, hann álítur ástand barna sinna i eilífdinni vera þad allra mikilvægasta aúgnamid sinnar umsorgunar. Hann leitast af öllum kraptum vid, ecki einasta ad kénna þeim kristilig frædi eptir bókstafnum, heldur ad vekja hjá þeim alvarliga tilfinníngu sinnar náttúru-spillíngar, og kéna þeim ad þeckja sitt vonda hjartalag, sína bresti og yfirsjónir, og

þar á eptir, hvörsu þeim aldeilis ómissandi sé Guds náð í Jesú Christo, hvör opinberud er fyrir predikun evangelii. Hann óskar miklu framar, ad börn sín verda mættu skynsamar, dygdugar og sanndristnar manneskjur, heldurenn rík, mektug og álitlig í heiminum. Hann kennir þeim ad hafa umgeingni vid Gud i bæninni, ad elska hans ord og heil: ritníngu. Hann bidur fyrir þeim ydugliga, og lætur sitt gudhrædslu dæmi lýsa fyrir þeirra augum. Hans ydugligasta áminning til þeirra er þessi: «leitid fyrst Guds ríkis og hans réttlætis!»

Minn kjæri lesari og heyrari! ef þú nú kannast vid þessar útmálanir yfir einn ógudligann, sem eg hefi géfid þér, og ef þín samvitska seigir vid þig: þínir þánkar, ord og athafnir eru sem hins ógudlega! Þá seigi eg þér í Guds nafni: þúert i skélfiligum sálar- voda staddur, já þú stendur rétt sem á barmi þess botnlausa fordæmíngar afgrunns, þar eru ei nema fáein fótmál milli þín og daudans — milli þín og þess eilífa danda. O! flý þá! flý snarliga til baka, og flýttu þér ad frelsa sálu þína; flýttu þér ad sneida hiá þeirri ókomnu reidi! Dómarinn er fyrir dyrum. Vit fyrir vist, ad án þess þú alvarliga takir sinnaskipti, sárángrist út af syndum þínum, og med heitri bæn og lifandi trú flýir til Guds miskunar fyrir Jesum Christum, þá munu þessi ord þruma

yfir þér á dómsins deigi: Eg þecki þig ecki, far frá mér þú illgjørdamadur!

2) Hugleid þá, ad svo framarliga þú í syndinna lifir, þá ert þú fjarlægur Gudi og þínum frelsara, og þeckir øldúngis ecki þá sønnu sælu gudsbarna. Þad er ómøguligt ad þú á syndarinnar veigi gétir haft nockurn frid né farsæld. Þeir óguðligu hafa eingann frid, seigir vor Gud. Seig mér: reynirdu ecki í sjálfum þér sannleika þessara hriggiligu orda? Eda hefurdu aldrei fundid til samvitskunnar bríxlis, og eins óttaligs forboda þeirrar eilífu hørmúngar, í hvørja þú steypir þér? Géturdu ecki af nockurslags tilfinníngu skilid, hvad meint verdur í ritníngunni fyrir þann orm, sem aldrei deyr, og fyrir þann eld, sem aldrei sløknar? En þad er líkast til ad þú, eins og þeir andvaralausu plaga ad gjøra, berir þig ad útrýma úr hjarta þér øllum þaunkum, um daudann og dóminn. Líkliga muntu leitast vid ad dempa raustu samvitskunnar, med því ad géfa þig í gledi samkvæmi, edur med hégómligu tali og dægra styttíngum, og med því ad uppfylla hjarta þitt med áhyggju fyrir þinni líkamligri sýslun og erfidi. En hvar fyrir gjørir þú þad? Mun þad ei ské fyrir þá sok, ad þú veitst ad samvitska þín vitnar á móti þér, og villt þessvegna, svo leingi þú gétur, umflýja hennar bríxli og áklaganir? En vit fyrir sann, ad hvørsu sem þú

vid því leitast ad svæfa hana og deyda, mun þó sá tími koma, fyr edur seinna, ad þú ei fær leingur móti því stadid, ad hennar skélsiliga fordæmíngar raust þreingi sér í gégnum þitt forherdta hjarta. Og — hvad mun þá verda af allri þeirri farsæld, sem þú hjeist sjálfum þér á syndarinnar veigi?

Nú vona eg ad þín eigin reynsla hafi allareidu sannfærdt þig um, ad einga sannarliga lucku sé á syndarinnar veigi ad finna. Eg ráðlegg þér þá af hjarta, reyndu hvört evangelii vegur leidir þig ei til óhultara takmarks; og ef þú villt þeim rádum fylgia, muntu skjótt komast ad raun um sannleika þessara orda: «Drottinn, þeir hafa mikinn frid, sem halda þitt lögmál.» Allnóg dæmi má til þess finna, ad þeir, sem, med lifandi trú, hafa reidt sig uppá drottinn, hafa midt í lífins hæmisligu biltíngum, já í sárustu naudum og sjúkdómi, reyndt í sjálfum sér, í hvörju sú sanna sálar farsæld fólgin er. Einúngis eitt sannferdugt dæmi þar uppá vil eg framsæra, sem tilbar sumarid 1799. Elisabet Purkis hét stúlka, fædd af frómum og fátækum foreldrum. Árla æfi hennar þóknadist drottni ad láta hana reyna naud og hörmúngar, þar hún féll í einn lángsamann tærandi sjúkdóm, sem dróg hana til daudans, ádur enn hún var fullra 20 ára ad aldri. Foreldrar hennar vóru svo fátækir, ad þeir ei gátu veitt henni naudsynliga

lífsins forsorgun, nema með sveitarinnar styrk, og tillagi frá ödrum. Nu þó fátæktin og sjúkdóms-ýfnan gierdi allt í kríngum hana fullt af eymd og hörmúngu, eíngu að sídur var þó allt hid innra hjá henni fullt af fridi og fögnudi. Huggunin út af Christi evangelio styrkti hana, og von eilífs lífs endurnærdi hana svo, ad hún tídt og opt sagdi: ad vegna þeirrar umgeingni, sem hún hefdi med Gudi, vildi hún ecki, þó hún ætti kost á, skipta sínum sjúkdóms og eymdakjörum, vid ástand þess farsælasta manns á jardríki, er ei nyti sömu nádar hjá Gudi, sem hún.

Biblían og sálmabókinn vóru hennar bestu stallsystur; þær huggudu hana daga og nætur midt í sjúkdóminum, þegar sála hennar fann til nockurrar ángistar. Loksins seck hún, sigri hrósandi, ad inngánga síns herra fögnud. O þú manneskja! sem leitar þinnar gledi midt í syndinni, gack fram og seig: hvørt þín farsæld bygd sé á nockrum óhultum grundvelli? láttu telja þér trú um, ad þú eigi kunnir sæll ad verda, fyr enn þá réttilega þeckir og af öllu hjarta óttast og elskar þann sanna Gud, og þann hann sendi Jesúm Christum.

3) Skaltu hugleida, ad svo leingi þú í syndinni lifir, þá ertú óvinur þess stóra og hátignarfulla Guds. Já hvør helst sem þú ert, kall edur kona, úngur edur gamall, hárrar edur lágrar stiettar, ríkur eda fátækur, þá skaltu vita; ad sé ecki Gud þinn vinur og þú hans,

Þá er heimur þessi þér, líka sem eitt fángelsi stór-brota-manninum, út af hverju þú lokssins munt dreiginn verda, á deigi reidinnar, til ad lída það straff, sem þú tilunnid hefur. Sjálfur ertu virkiliga einn Guds óvinur, já þú ert einn upp-hlaupsmadur móti honum, hver andsýndt hefur þér svo mikid gott, í frá þinni fædíngar stundu. Þín verk vitna á móti þér, því med þeim er líka sem þú hrópir: „Eg vil ecki láta Gud drottna yfir mér; eg vil vera minn eiginn herra!„ En at vera óhlýdinn Gudi, og þessvegna í hans óvináttu, það er í sannleika það allra hrædiligasta ástand, sem ein manneskja kann í ad komast. Það er betra ad hafa alla menn í heiminum, já alla djöfla í helvíti, fyrir sína óvini, enn þann blessada Guð; og ad vera brædur fyrir vondsku djöfulsins og óvináttu vondra manna, en óttast þó ecki ad egna yfir sig reidi Guds, er hin allra stærsta dármenska. Omøguligt er þér ad umflýja Guds sterka armlegg, nær hann framkallar þig, á deigi reikníngskaparins; reyna munu þá, hversu skelfiligt er ad falla í hendur Guds, sem med syndinni var til reidi reittur.

Lokssins mun þér þá í hug koma þessi a d-varunar raust, og þá muntu sárbarma þér yfir því, ad þú med daufum eyrum heyrdt hafir þaug ráð, sem nú eru þér gésinn.

4) Settu þér fyrir sjónir, ad innan skams mun daudi, dómur og eilífd yfirfalla þig. O hvørsu hastarliga kann daudinn ad brjótast inn. Hann sendir sjaldan bod á undan sér. Og þegar hann kémur, þá er eckert undanfæri; þá hlýtur manneskjan ad dragast fram fyrir Guds dómstól. Þá hlýtur hún ad standa reikníngskap af øllum sínum þaunkum, ordum og verkum. Hvørsu sárkveljandi mun þá endurminníng syndanna verda, og ad hugsa til þess ad madur svo dárliga seldt hafi, í heiminum, sálu sína fyrir sauriga vellist, syndugann ávinníng og svikulann heidur. Þá hlýtur madur ad gjøra reiknsíng fyrir alla sína lífs rádsmensku, hvørsu hann brúkad hafi sinn tíma, sína sálar: og lífskrapta, sína yfirburdi yfir ødrum, og hvarfyrir madur brúkad hafi allt þetta framar til sinnar eigin holdligrar æru og ábata, enn til Guds dýrdar. Þá mun dómarinn segja: setti eg þig í heiminn, einasta til ad sorga fyrir þínum vesæla líkama, en gleima þinni ódaudligu sálu? Skickadi eg minn sabbatsdag til þess, þú skyldir vanhelga hann, og brúka hann til hégómans og syndarinnar þjónustu? Gaf eg þér mitt sáluhjálgliga ord til þess þú skyldir forsmá þad og kasta því í vind? Lét eg kunngjøra þér mín bodord til þess þú skyldir leika þér ad yfirtroda þaug og vandvyrda? útsendi eg ecki mína trúlynda þjóna, til þess, í mínu nafni, ad bjóda þeim stærstu syndurum nád, fyrirgéfníngu og hlutdeild

í Jesú fridþægjanda dauda? Og ad ösgtudu öllu þessu, hefur hjarta þitt verid tilfinníngarlaust og ecki skeitt mínum bestu velgjörníngum, heldur fylgt sínum eiginn vonda vilja og ramspiltu tilhneigíngum. Þegar nú sá hátignarfulli dómari framsetur slíkar spurníngar fyrir þig, hvada svar muntu þá géta géfid hönum? Ordlaus og daudskélfdur muntú þá standa fyrir hans heil. augliti, af því samvitska þín sannfærir þig um sök þína, og ógnar þér med kvída þess straffs, sem þú hefur tilunnid. Vissuliga mun þá hugur þinn — hvörsu dofinn og þverúdarfullur sem hann var medan þú lifdir — verda pýndur af einni sundurknosandi hrædslu, nær þú hlýtur ad heyra þennan ógnarliga dóms-úrskurd: «far burt frá mínu augliti, þú hinn bölvadi, í þann eilífa eld, sem fyrirbúinn er djöflinum og öllum hans árum!»

O gleym ecki þessu, þú syndari! medan enn nú er tími til umvendunar! O þeink til eilífdarinnar! Eilífdarinnar seigi eg — þad ord hefur svo óendanliga mikid í sér inni ad binda. Þegar þú hefur aflagt þennann þinn forgeingiliga, en ofmjög elskada, líkama, og feingid annann, sem aldrei — aldrei — forgeingid gétur, hvört heldur hann er í eilífri sælu, edur eilífum kvölum; o þá munu opna sig fyrir augum þínum, allir þeir stóru háleitu hlutir, sem í Guds ordi hér vóru fyrir þér bryndir; himnaríki og helvíti, sáluhjálp

og fordæmíng — sem hér vóru opt sem einn draumur fyrir þínum þánka — verda þá svo augljós fyrir þér, sem sólin á heidnum himni. O sæll værir þú, ef Gud gjæfi þér, ad þessir þánkar gjætu nú svo strags inntekid hjarta þitt í tíma, ad þú, fyrir eina sanna ydrun og lifandi trú á Jesum, feingir umflúid þá tilkomandi reidi. Þessvegna:

5) Athuga af alvøru, ad svo skélfiliga hørmuligt sem þitt ástand er, svo leingi þú ecki ert rettiliga til Guds umvendtur, svo vissann veg bodar þó Christi evangelium þér, til ad verda hluttakandi í Guds nád, til þinna synda fyrirgéfníngar. Viltú nú vita þennann veg? O svo opnadu þá med heil. audmýkt þín holds og hugskots eyru, og hlusta til!

Jesús er vegurinn, sannleikurinn og lífid. Hann er sá stóri frelsari, sem afrekad hefur eina stóra sáluhjálp med stórum atburdum. Þessi sáluhjálp er øllum frambodinn; hvør sem hana réttiliga þyggur fær efalaust fyrirgéníngu synda sinna og eilíft líf. En sá einn þyggur hana rettiliga, sem fyrst er svo ángurbitinn út af syndum sínum, ad hann metur þær sem sinn stærsta skada, og hatar þær sem sinn versta óvin; þarnærst trúir því af øllu hjarta, ad Jesús Christus hafi med sinni pínu og dauda betalad Guds réttlæti allar sínar syndir, og tilegnar sér þessvegna hans forþénustu sem sinn eigindóm. Þessi Jesú

forþénusta er það sem gjörir mann sáluhjálpar-innar verdugann, en eckert annad. Hugsa þess-vegna aldrei til, med þínum eiginn atburdum ad gjöra þig hennar makligann, ellegar ad gjöra þig sjálfann hreinann ádurenn þú kémur til hans, er þig hreinsa skal. Það væri allt eins og ad bidja þann sjúka, ad lækna sig sjálfann, ádur enn hann gjæfi sig á læknarans vald. Sjá, þetta er nú sá glediligi bodskapur, sem þér, syndugur madur, kunngjördur er í evangelío. O! medtaktu hann þessvegna med því hjartalagi, sem fullt er af heitri elsku til lifanda Guds, er lét sér þóknast ad sýna þvílíka elsku fortöpudum heimi: «ad hann gaf út sinn eingétinn son, til þess, ad allir þeir sem á hann trúa, ecki skuli fyrirfarast, heldur hafa eilíft líf.» Hann gaf hann í daudann til þess þú lífa skyldir; hann lét dæma hann, svo þú ei þyrftir af lögmálinu ad fordæmast, hvört þú yfirtrodid hefur. Hvörsu gudlausu líferni sem þú híngad til lifad hefur, hvörsu hræddur og hriggur sem þú ert, út af þínum mörgu og stóru syndum, svo framhýdst þér þó í evangelío ein frí og fullkominn fyrirgéfníng á þeim öllum saman, svo framt þú geingur þann veg, sem ádur er sagt, til Guds, gégnum Jesúm Christum. Þessi dýrmæti lærdómur um fyrirgéfníngu syndanna vegna Jesú pínu og dauda, hefur þann krapt í sér, sé hann rettiliga medtekinn, ad hann gétur gjördt dryckjurútaran hóffsamann, þann lausláta

ſkörlſſamt, Þann offſopaſulla fridſamann, Þann-rángſleitna hreinſkiptinn og Þann ſem leingi heſur verid undir myrkranna valdi, ad einum heima- manni Guds; og Þad er viſt merki Þeſs, ad hann heſur ei med réttu hugarfari medtekinn verid, verki hann ecki Þvílíka umbreytíngu í hjartalagi mans og lifnadi.

Jhuga Þeſsvegna, hvörſu Gud allrar nádar- vyrdiſt ad lítilæta ſig ſvo, ad hann — eins og honum rídi allt á Þinni umvendun, en Þér ecki — bídur Þig ad athuga hvad til Þíns fridar heyri, ádur heldurenn Þad verdur ad eilífu hulid fyrir Þínum augum. Jhuga, ad ſá medaumkunarſami frelſari, ſem útgaf ſitt líf til endurlauſnar ſynd- urunum, ávarpar Þá med Þeſſum nádarríku ord- um: «komid til mín allir Þér ſem erfidi drýgid. og Þúnga erud Þjádir, eg vil ydur endurnæra.» Og ad hann ſeinaſt, Þér til enn frekari hughreyſt- íngar, bætir Þeſſu vid: «ad hann eingannveiginn vilji Þann frá ſér reka, ſem til hans kémur.» Svo hvörſu leingi ſem Þú heſur í ydrunarleyſi Gudi mótiſtadid, ſvo er eingu ad ſídur, í hans miſkunnar hjarta, nóg rúm fyrir Þig. Og Þó hann ſé nú upphafinn á háſtól dyrdar ſinnar, lítur hann Þó ennnú í dag medaumkunarſamliga nidur til Þín; já hann gjætir vel ad, med hvílíku hug- arfari Þú les og heyrir ord Þeſsi. Rétt á Þeſſu augnabliki veit hann, med hvörri athugaſemi Þú

þetta gjørir, og hvørja verkun þessar áminníngar, hafa muni í þínu hjarta.

O í Guðs nafni lát það ecki ské, að þú ei takir á móti Drottni Jesú, sem vill frelsa þig, eður vanrækir þá náð, sem þér er nú frambodinn. Hugsaðu til þess, að þú ómøgnliga gétur hlutdeild feingið í Guðs náðar-féstjóðum, ef þú á náðarinnar tíma vanrækir eður frá þér skúfar svo stórri sáluhjálp.

Gleddú þessvegna Guð og þinn frelsara Jesúm, sem hrigðist, pýndist og dó þinna vegna, með þinni fullkominni umvendum; gleddú með henni heil. eingla, sem gleðjast yfir þinni velferð; gleddú með henni øll Guðs børn, sem hjartanliga gyrnast þína sem sína sáluhjá'p!

O að þú mættir reyna hvað gott þeir eiga, sem fyrir sanna umvendun komnir eru í Guðs náð og vináttu; o að þú verða mættir eins luckuligur og þeir, og smacka þá sømu gleði í sálu þinni, sem þeir smacka!

Þess óska þeir þér og biðja af øllu hjarta. Þeir vita, að í síns føðurs húsi er nóg brauð, hvað mørg húngruð børn sem þess leita, og þeir þeckja síns føðurs hjarta svo, að það brestur af meðaumkun yfir slíkum syndurum, sem þú ert. Þeir vita og að þú ei gétur luckuligur orðið, nema þú, eins og sá fortapaði sonur, er svallað hafði sínu góssi, snúir heim aptur til þíns himneska føðurs. Þeim þykir sem sín eiginn sæla

aukist, ef þeir vita að þú færð að njóta hennar ásamt sér.

Hugleið þaug stóru og ypparligu gjæði, er heyra þeim til, sem með hreinskilnu hjartalagi, hafa, með María, útvalið það besta hlutskiptið. Þeir hafa til eignar feingið það dýrmæta hnoss, er ei skal frá þeim takast. Öll Guðs fyrirheit skulu við þá uppfyld verða. Í þessu lífi njóta þeir margfaldrar Guðs blessunar, bæði fyrir líf og sálu og þessa heims mótlæti hlýtur að færa þeim til stærstu lucku. Líf og dauða og alla hluti, bæði það nálæga og fjarlæga lætur Guðs forsjón verða þeim til bestu blessunar. Þeir gleðja sig yfir þeirri fullvissu, sem Guðs andi gjörir þeim í hjarta þeirra, að þeir verða skuli eilífrar dýrðar erfíngjar. Þeirra vonar-augu líta eptir því eilífa kóngsríki, sem þeim til eigindóms áqvarðað er.

Megnar nú ecki allt þetta, minn vin! að uppvekja eina alvarliga ástundun hjá þér, til að verða hluttakandi í þessari farsæld. Bið Guð — æ bið hann af hjarta — fyrir Jesú Christi sakir, að mýkja þitt harða sinni, endurskapa þína spilltu náttúru, beigja þinn mótþróafulla vilja, samt gjöra þig að einni nýrri manneskju, sem eptir Guði er skepuð, í sannarligu réttlæti og heilagleika.

Enn að lyktum vil eg gefa þér enn eina nauðsýnliga áminníngu. Verði þér, sem Guð gjæfi, hugfast af alvöru að umvendast, þá varaðu þig,

fyrir Guds skuld, einkum vid tvennu: Fyrst vid þíns eigin hjarta mótmælum, sem innbirla vill þér, ad verk þetta sé bædi ómøguligt og srvæntíngarfullt; þarnæst vid þinna heimsliga finnudu vina og kunnínga afvegaleidslum, sem álíta verk þetta ónaudsynligt, og jafnvel skadligt þínu líkamligu gagni.

Vit fyrir víst, ad þetta eru þaug tvø kraptugustu satans verkfæri, til ad hindra umvendun þína. Lokadu því eyru þín fyrir heimsins barna tælandi røddu, og umflý þeirra umgeingni allt hvad þér er møguligt. Fylg þeim ecki á þeirra veigi, því hann liggur til helvítis! Heldur seig med þeim trúfasta Guds þjenara Jósua: «Þér meigid gjøra, hvad ydur sýnist, eg, fyrir mitt leiti, vil þjóna Drottni!»